# Litlu stöfunum er skipt í fjölskyldur

Stafir með skyld form eru í sömu fjölskyldu.
Hér sést hvernig dregið er til stafanna, síðan koma stafirnir ótengdir og að lokum tengdir.

| | | | |
|---|---|---|---|
| a-fjölskyldan | adgquy | adgquy | adgquy |
| b-fjölskyldan | bppnmhkr | bppnmhkr | bppnmhkr |
| o-fjölskyldan | ocðeæts | ocðeæts | ocðeæts |
| l-fjölskyldan | lijf | lijf | lijf |
| x-fjölskyldan | xvwz | xvwz | xvwz |

**Ítalíuskrift 3B**
ISBN: 978-9979-0-1643-4



1. útgáfa 2013
Námsgagnastofnun
Kópavogi

Ritstjóri: Harpa Pálmadóttir



Prentun: Ísafoldarprentsmiðja ehf. – Umhverfisvottuð prentsmiðja
Pappír: Munken Pure 240 g/m² og Munken Premium Cream 13 115 g/m²
Letur: BriemAnvil, BriemHandwriting og Italiuskrift05

# Skýringar með bók

Ítarlegri kennsluleiðbeiningar eru á vef Námsgagnastofnunar: <vefir.nams.is/italiuskrift>



**Vinstri og hægri hönd**
Bókin er fyrir örvhenta og rétthenta. Skýringarmyndir eru því ýmist af vinstri eða hægri hönd. Litir á fingrum hjálpa til við að læra rétt grip á skriffæri.



**Skrifa**
Myndirnar tákna að það eigi að skrifa.




**Spora**
Myndirnar tákna að það eigi að spora með fingri.



**Litir**
Mynd af trélitum sýnir hvenær megi nota liti við æfingar.



**Gripgúmmí** á blýantinn getur hjálpað til við að ná réttu gripi.




**Hjálparlínur** hjálpa til við að átta sig á hlutföllum og stærð stafanna. **Línutáknin** sól, ský, flugvél, skip og kafbátur hjálpa til við að muna hæð og staðsetningu stafanna.



**Stafaslóðir** sýna hvernig dregið er til stafanna. Rauður þríhyrningur sýnir byrjunarpunkt. Grá punktalína sýnir slóð pennans þegar honum er lyft og byrjað aftur.



**Svartur punktur** sýnir hvar á að byrja að skrifa stafinn.




**Réttur halli, stærð og form**
Mjög mikilvægt er að láta alla stafi halla eins til að fá áferðarfallega skrift. Eins að hafa rétta stærð, rétt form og jafnt bil á milli stafa.



**Skriffæri**
Blýantar eru ekki allir eins. Þeir mjúku eru bestir: **HB, 2B eða 4B**.
Mikilvægt er að velja skriffæri sem hentar. Gott er að prófa nokkrar gerðir.




**Borðrenninga** má sækja á kennsluvef. Gott að hafa á borðinu til hliðar þegar verið er að skrifa.



**Sitja rétt**
Mikilvægt er að sitja rétt við borð. Stóllinn sem setið er á þarf að vera í réttri hæð við borðið. Framhandleggir þurfa að hvíla þægilega á borðinu.




**Forskriftarblöð**
Úrval forskriftarblaða til útprentunar er hægt að nálgast á kennsluvef.

**Hugmynd**
Sumum gengur betur við stafina *g* og *y* með því að ímynda sér tvo þríhyrninga sem hægt er að skrifa kringum.



**Undirleggir**
eru skrifaðir næstum niður að undirlínu, þá er byrjað að beygja til vinstri, þaðan niður á grunnlínu og svo upp á við til vinstri.

Boginn á *j* er styttri en boginn á *g*, *y* og *f*

# *Stafir með sömu skriftarhreyfingu*

Hver stafur sem lærist er gagnlegur við að temja sér hina. Gott að æfa þá saman.






# Rifjaðu upp og æfðu

Skrifaðu ofan í ljósu stafina og í auðu bilin. Passaðu að setja brodda á rétta staði.



# Berðu saman og æfðu stafina h og k

Sporaðu fyrst og skrifaðu ofan í ljósu stafina. Fylgdu líka tölunum og finndu stafina.




Ef þú hugsar þér stafinn *k* eins og stafinn *h* sem er með níðþröngt belti. Þá er kannski auðveldara að skrifa hann í góðum hlutföllum.

# Rifjaðu upp og æfðu

Skrifaðu ofan í ljósu stafina og í auðu bilin. Passaðu að setja brodda á rétta staði.









# Berðu saman og æfðu stafina d og ð

Sporaðu fyrst og skrifaðu ofan í ljósu stafina. Fylgdu líka tölunum og finndu stafina.



d ð d D ð Ð D Ð



**Stafbelgir** stafanna d og ð eru mjög ólíkir að lögun. Stafurinn d tilheyrir því a-fjölskyldunni en stafurinn ð tilheyrir o-fjölskyldunni.



Í stóru stöfunum er það aðeins þverstrikið sem skilur stafina að. Stóra Ð er með þverstriki en ekki stóra D.

Lyftu litnum upp ef þú kemur að stjörnu ★






**Jafnvægi**
Ef þú hugsar þér kross ofan við stafinn o þá getur það hjálpað þér að skrifa stafinn ð í góðu jafnvægi.

Daði eða Dídí fékk miðann.

# Rifjaðu upp og æfðu

Skrifaðu ofan í ljósu stafina og í auðu bilin. Passaðu að setja brodda og depla á rétta staði.



# Berðu saman og æfðu stafina o og s

Sporaðu fyrst og skrifaðu svo ofan í ljósu stafina. Fylgdu líka tölunum og finndu stafina.









**Hlutföll og halli**
Ef þú hugsar þér að stafurinn s eigi að passa ofan á stafinn o sem er með skálínu yfir. Þá er kannski auðveldara að skrifa stafinn s í góðum hlutföllum og réttum halla.

Neðri hluti stafsins s á að vera svolítið stærri en sá efri.



# Berðu saman og æfðu stafina e og æ

Sporaðu fyrst og skrifaðu ofan í ljósu stafina. Fylgdu líka tölunum og finndu stafina.





e E æ Æ

**Svona skrifum við stafinn** *e*
Við byrjum ofarlega og skrifum fyrri dráttinn eins og helminginn af stafnum *o*.
Næst lyftum við blýantinum og byrjum síðari dráttinn á sama stað og þann fyrri. Hann myndar lítinn stafbelg sem lokast rétt fyrir ofan miðju fyrri dráttarins. Þaðan má tengja í næsta staf.

Lyftu litnum upp ef þú kemur að stjörnu ★







Grunnlína



**Samsteypa**
Vinstri hluti litla stafsins *æ* er eins og belgur stafsins *a*. Sá hægri er sóttur í stafinn *e*. Það sama á við stóra *Æ*. Og munið að *E*-ið er alltaf beint. Það hallar ekki aftur á bak og ekki heldur í *Æ*.

Ævar og ég erum bræður.



# Rifjaðu upp og æfðu

Skrifaðu ofan í ljósu stafina og í auðu bilin. Passaðu að setja brodda og depla á rétta staði.



# Rifjaðu upp og æfðu

Skrifaðu ofan í ljósu stafina og í auðu bilin. Passaðu að setja brodda og depla á rétta staði.




x x x X X
z z zz Z Z
v v w V V
w w ww W W

Vigdís fór í bíó klukkan sex.
Laxinn synti í vatninu.







**Borðrenningar**
Spurðu kennarann þinn um borðrenninga.
Þú getur fengið þá með tengdu letri og ótengdu, með hjálparlínum og án þeirra.

Gott er að hafa þá á borðinu til hliðar þegar þú ert að skrifa. Svo geturðu geymt þá í pennaveskinu þínu þess á milli.






**Litla t**
Yfirleggur stafsins t er styttri en á öðrum litlum stöfum.
Byrjaðu á stafnum við hástafalínu. Gerðu staflegg litið eitt til vinstri. Nálægt grunnlínunni gerirðu boglínu til hægri eins og í stöfunum c og e. Lyftu blýantinum og færðu hann upp að miðlínu.
Á endanum gerirðu lárétt strik sem byrjar vinstra megin við legginn. Það er líka lokadráttur og tengist næsta staf. Hann litur betur út ef hann er litð eitt fyrir neðan miðlínu.

# Berðu saman og æfðu stafina e og t

Sporaðu fyrst og skrifaðu ofan í ljósu stafina. Fylgdu líka tölunum og finndu stafina.



Lyftu litnum upp ef þú kemur að stjörnu ★




Tóti og Ella elta boltana sína.

# Æfðu tölustafina

Skrifaðu ofan í ljósu tölustafina og í auðu bilin.

0 1 2 3 4 5 6 7 8 9

1 1 1 2 2 2 3 3 3 4 4 4 4

5 5 5 6 6 6 7 7 7 8 8 8 8

9 9 9 0 0 0 10 10 10

67 67 67 447 447

117+117=234 771+80=851

653+192=845 321+654=975



Talan 1
byrjar á stuttum upphafs-
drætti. Hann þarf að hallast
nóg til þess að ekki sé villst á
honum og lárétta strikinu á
tölunni 7.



Talan 7 er einföld. Hún
byrjar á láréttu striki til
hægri. Það nemur staðar,
myndar horn og síðan
skáa til vinstri niður að
grunnlínu. Talan er svipuð
stafnum Z án neðsta
striksins.

Þverstrikið á tölunni 7
þarf að vera lárétt. Og skáinn
verður að hallast nóg til þess
að hún verði ekki mislesin
sem talan 1.




Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Í þjóðsögum segir frá bræðrum

sem bjuggju á bænum Bakka.

Þeir voru þekktir fyrir heimskupör.



Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Eitt sinn fóru Bakkabræður í fótabað

í heitri laug. Þegar upp átti að standa

þekktu þeir ekki eigin fætur og þorðu



# Skrifaðu

Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

sig hvergi að hreyfa. í

baðinu sátu þeir ráða-

lausir þangað til ferðamann bar þar að



Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

sem þeir báðu hjálpar. Hann sló

á fætur þeirra með göngustaf

og kannaðist þá hver við sína.




Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Fimm manna fjölskylda var undir sömu

regnhlíf. Hvers vegna vöknaði

enginn? Það var ekki rigning.

# Flúræfingar þjálfa allan handlegginn

Sporaðu fyrst og skrifaðu síðan ofan í flúrið. Markmiðið er hrein, hnykkjalaus boglína.



# Flúræfingar þjálfa allan handlegginn

Sporaðu fyrst og skrifaðu síðan ofan í flúrið. Markmiðið er hrein, hnykkjalaus boglína.





# Skrifaðu

Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Hvers vegna hopparðu hér um allt? Æ,

ég gleymdi að hrista kvefmeðalið áður

en ég tók það inn.




Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Hvað sagði núllið

við áttuna?

Mikið ertu með eigulegan hálsklút.




Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Fíllinn hrópaði til músarinnar: „Komdu

upp úr lauginni. Þú tókst

sundbolinn minn í misgripum!“



# Skrifaðu

Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.



Hvers vegna ertu með pylsu

bak við eyrað? Æ! Ég hlýt að

hafa borðað blýantinn.






Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Hvers vegna gera kjánaprik göt á regn-

hlífarnar sínar? Til þess að

vita hvenær stytt er upp.




Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Hvernig slysaðist maðurinn til þess að

brenna sig á báðum eyrum? Þegar hann

pressaði úlpuna sína hringdi síminn.



Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

En hvernig brenndi hann sig

þá í seinna skiptið? Þegar

hann hringdi á sjúkrabíl.



Skrifaðu ofan í orðin og síðan sama texta í línuna fyrir neðan.

Hvaðan koma þessi skítugu fótspor? Það

veit ég ekki en þau hafa

elt mig í allan dag.

AÁBCDÐEÉFGHIÍJKLMNOÓPQRSTUÚVWXYÝZÞÆÖ
aábcdðeéfghiíjklmnoópqrstuúvwxyýzþæö

# Ítalíuskrift

**Skriftarbók fyrir örvhenta og rétthenta**

Markmið skriftarnámsins er að nemandinn þjálfist í skrift sem nýtist honum vel í skólastarfinu og í daglegu lífi síðar meir. Lögð er áhersla á að skrift er hreyfing og farið frá auðveldu kroti til stæðilegrar rithandar. Aðaláherslan er á skriftarhreyfinguna, litlu stafina og tengingu þeirra en tengingin eykur flæði skriftarinnar. Til að auðvelda námið er litlu stöfunum skipt í fjölskyldur. Stafir með skyld form, og því svipaðar stafaslóðir, eru í sömu fjölskyldu og hver fjölskylda á svo sinn lit. Ítalíuskriftin er læsileg og góð hversdagsskrift sem felur í sér marga möguleika til þróunar á fallegri rithönd.

**Kennsluleiðbeiningar eru á vef Námsgagnastofnunar: <vefir.nams.is/italiuskrift>**



ISBN 978-9979-0-1643-4



Námsgagnastofnun

7116